# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, OKTÓBER 1900. Nr. 8.

## Haustsálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM—út af Jóh 4, 35—38.

(Lag: Vertu hjá mér; halla tekr degi.)

1. Uppskerunnar enn er langt að bíða,
oft vér hugsum ; margir dagar líða
þangað til að oss er kallað á ;
uppskeran er sjálfsagt langt í frá.

2. Lítum upp ; vér landið bliknað sjáum ;
lærdóm þar vér alvarlegan fáum ;
minnir það oss orðin Jesú á,
akra hvíta hann er benti' að sjá.

3. Bleikir akrar, engi, tún og grundir
ís og klaka bráðum leggjast undir ;
enn ei haustið langt er liðið á,
litverp þó er jörðin öll að sjá.

4. Á hvað minnir bera jörðin bleika?
Bendir hún á lífsins hverfulleika,
dauðann minnir ótvírætt oss á,
uppskerunnar þegar vænta má.

5. Á hvað benda bliknuð gráu hárin?
Benda' á það, að líða taki árin,—
eru hvít til uppskerunnar þá
eins og bliknuð jörðin haustum á.

6. En þótt jörðin enn í blóma skíni,
œskublóma hár og kinnar sýni,
haust og elli aldrei langt er frá,
uppskerunnar sífellt vænta má.

7. Uppskerunnar eigi' er langt að bíða,
enn þótt kunni nokkur tími' að líða;
búumst undir uppskeruna þá,
ávöxt góðan reynum til að fá.

8. Ávöxtum til eilífs lífs oss söfnum,
alla tíma' í náð og vizku döfnum,
seint og snemma, sumri' og vetri á;
sæla verðr uppskeran oss þá.

## Saga Selkirk-safnaðar.

Eftir Gest Jóhannsson.

Á hvítasunnudag vorið 1889 höfðu fáeinir Íslendingar, sem heima áttu í Selkirk, lestrarsamkomu. Á þeirri samkomu komu þeir sér saman um að mynda söfnuð, og var það svo afráðið. Hinn nýmyndaði söfnuðr beiddist þegar inngöngu í kirkjufélagið og kaus hr. Friðjón Friðriksson í Glenboro fyrir erindsreka sinn á kirkjuþingi, sem haldið var í Argyle-byggð þá um sumarið. Sökum fámennis og fátæktar gat söfnuðr þessi eigi notið neinnar fastrar prestsþjónustu og varð að láta sér nœgja að halda lestrarsamkomur sínar á heimili einhvers af safnaðarmönnum.

Þetta sama sumar réðst söfnuðrinn í að reisa sér kirkju á stræti því, er Ross Avenue heitir, sunnarlega í bœnum. Var það hús að eins 24 fet á lengd og 18 fet á breidd, og voru þá

Íslendingar hér eigi mannfleiri en svo, að þetta litla hús var jafnaðarlega nœgilega rúmgott.

Um þessar mundir þjónaði séra Magnús Skaftason söfnuðum kirkjufélagsins í Nýja Íslandi, og prédikaði hann jafnan fyrir Selkirk-söfnuði, þegar hann átti ferðir til Winnipeg, og varð því óbeinlínis þjónandi prestr safnaðarins, þótt aldrei fengi hann köllun frá honum.

Um vorið 1891 hélt séra Magnús rœðu fyrir einum af söfnuðum sínum í Nýja Íslandi, sem síðan hefir fræg orðið, og nefnist hún páskadagsrœða, með því að hún var flutt á páskadaginn. Í þessari rœðu neitaði séra Magnús því algjörlega, að eilíf fordœming væri möguleg.

Upp frá þeim degi gjörðist hann forvígismaðr allra þeirra, er hneigðust að þeirri skoðan. Og með því að hann fór þá um sömu mundir að sneiða hjá friðþægingarlærdómi Krists, ásamt fleiri undirstöðuatriðum kristindómsins, var auðséð, að hann gat eigi lengr átt samleið með kirkjufélaginu, enda hafði hann sagt sig úr því þegar sama vorið. Þessi úrsögn séra Magnússar var mjög tilfinnanleg fyrir söfnuði kirkjufélagsins, sem hann þjónaði, einkum fyrir þá sök, að hann og fylgismenn hans héldu því fast fram, að hann væri, og héldi áfram að vera, lúterskr, og það að hann segði sig úr kirkjufélaginu væri að eins fyrir ófrjálslyndi þess í safnaðamálum og þröngsýni þess í trúarefnum.

Hér í Selkirk hafði séra Magnús sneitt hjá ágreiningsmálum sínum við kirkjufélagið, og gjörði þá helzt siðalærdóminn að umtalsefni í rœðum sínum. En þeir af safnaðarmönnum, er héldu fastast taum kirkjufélagsins, þóttust samt varir veðrabrigða. Risu þá upp deilur í söfnuðinum út úr því, hvort rétt væri að láta M. S. halda áfram að prédika í kirkjunni. Fram að þessum tíma hafði hann kynnt sig hér að góðu einu ; og bæði vegna þess og þess annars, að nokkrir safnaðarmanna hölluðust að skoðunum hans í trúarefnum, risu upp í söfnuðinum tveir andstœðir flokkar. Í upphafi deilunnar voru fulltrúar safnaðarins kirkjufélags megin, en á næsta kjörfundi, sem eigi var haldinn fyrr en í Febrúar 1892, voru allir fulltrúar safnaðarins kosnir úr þeim hluta hans, er

fylgdi séra Magnúsi að málum. Sýndi það sig þá, að kirkjufélagsflokkrinn var í minni hluta. Hinir nýkjörnu safnaðarfulltrúar störfuðu þá ötullega að málum sínum með fylgi meiri hlutans, og leið því eigi á löngu, að söfnuðrinn segði sig úr kirkjufélaginu. Gengu þá minni hluta menn af fundi og mótmæltu samþykkt meiri hlutans sem ólöglegri, fyrir því, að séra Magnús og allir, sem fylgdu honum að málum, gæti eigi átt samleið með kirkjufélaginu að eins fyrir þá sök, að þeir bryti lög þess. Sögðu þeir sig þá um leið úr lögum við meiri hlutann. Þó kusu þeir sér ekki nýja safnaðarfulltrúa — úr sínum hópi — fyrr en nærri ári síðar. Sá fundr var haldinn á heimili hr. Ólafs Nordals 27. Janúar 1893. Voru þá menn þeir kosnir í nefndina, er nú skal greina: Jón Gíslason, Ólafr Nordal, Gestr Jóhannsson, Sigvaldi Nordal og Gunnlaugr Oddsson. Var þá söfnuðrinn nefndur „Hinn evangelisk-lúterski söfnuðr Íslendinga í Selkirk". Þessi söfnuðr sendi svo séra Friðrik J. Bergmann köllunarbréf, er hafði þann árangr, að hann gjörðist þjónandi prestr safnaðarins næsta ár, og heimsótti hann söfnuðinn og flutti fyrir hann guðsþjónustur nokkrum sinnum á árinu.

Á tímanum, sem leið frá því, er meiri hlutinn sagði sig úr kirkjufélaginu, þangað til séra Friðrik var send köllun, hafði meiri hlutinn haldið uppi sunnudagsskóla og lestrarsamkomum í kirkjunni eins og venja hafði verið frá byrjan. En þegar minni hlutinn tók aftr til starfa sem sjálfstœðr kirkjufélagssöfnuðr, risu deilur út af því, hvor hluti safnaðarins væri hinn rétti eigandi kirkjunnar. Þessi deila varð all-hörð um tíma, en fyrir milligöngu nokkurra manna varð því komið til leiðar, að hvorirtveggja safnaðarhlutarnir héldu fundi (15. Marz 1893), og á þeim fundum urðu þær samþykktir, að meiri hlutinn léti kirkjuna af hendi við minni hlutann, er svo átti að borga meiri hlutanum $50 í peningum á næsta sumri, þá í hönd faranda. Þessir samningar áttu svo að undirskrifast með lögmanns gjörð innan þriggja daga. En morguninn eftir að þessar samþykktir voru gjörðar fór forseti meiri hlutans burt úr bœnum, og hafði hann þá hvorki afhent meðnefndarmönnum sínum sáttagjörðarsamþykkt meiri hlutans,

né gefið neinum þeirra umboð til að undirskrifa samninginn fyrir sína hönd og safnaðarins, svo minni hlutinn beið árangurslaust langt fram yfir umsaminn tíma eftir framkvæmd í málinu. Meðan á þessu stóð hafði kirkjunni verið lokað af báðum málspörtum; en þegar útséð var um, að forseti meiri hlutans fylgdi fram sáttagjörðinni, þá opnaði minni hlutinn kirkjuna sér til afnota og eignarhalds, og var því máli aldrei hreyft síðan.

Það var á páskadaginn vorið 1893, að hinn evangelisk-lúterski söfnuðr hélt hina fyrstu lestrarsamkomu í kirkjunni, og með þeim degi má nálega segja, að starfsemi þess fólks, er nú nefnist Selkirk-söfnuðr, byrji.

Af meiri hlutanum er það helzt að segja, að upp frá þessu sleppti lang-mestr hluti hans öllum tökum á kirkju- og safnaða-málum, sökum þess að séra M. Skaftason fór þá eigi lengr dult með þá fyrirætlan sína að þjóna ekki öðrum söfnuðum en þeim, er játuðu trú Únítara. En meiri hluta söfnuðinum í Selkirk hafði eigi komið það til hugar, og klofnaði hann þá enn í snndr. Þeir úr honum, sem hölluðust að skoðan séra M. S., mynduðu þá únítara-söfnuð, sem var að nafninu til um tveggja eða þriggja ára tíma. En hinn partr meiri hlutans hefir til nálægs tíma staðið utan safnaða og sneitt hjá afskiftum af trúmálum. Margir úr þeim flokki hafa þó, einkum nú á síðustu árum, styrkt Selkirk-söfnuð með fjárframlögum til kirkjubyggingar og prestslauna, og nokkrir gengið inn í hann.

Af þessu, sem hér er sagt, verða auðskildar hinar mjög svo eðlilegu orsakir til þess, að hinn evangelisk-lúterski söfnuðr Íslendinga hér í Selkirk hefir til skamms tíma verið svo fámennr, að allar verklegar framkvæmdir hafa verið seinfœrar og örðugar viðfangs. Sumarið 1893 byrjaði þó söfnuðrinn með því, að fá presta kirkjufélagsins til þess að vígja hina litlu kirkju á Ross Ave. 30. Jan. 1894 var samþykkt á safnaðarfundi, að kalla séra Björn B. Jónsson—nú prest í Minnesota—upp á hálfa prestþjónustu og $300 laun, sem þó hafði eigi annan árangr en þann, að neitunarbréf frá honum var lesið upp á safnaðarfundi 31. Júlí 1894. Á safnaðarfundi, er

haldinn var 26. Marz 1895, var samþykkt köllun til séra Odds V. Gíslasonar, prests Brœðrasafnaðar í Nýja Íslandi, og þjónaði hann söfnuðinum að 5.—6. parti til ársloka 1897. 4. Jan. 1898 var samþykkt köllunarbréf til séra Jónasar A. Sigurðssonar, prests í Norðr-Dakota, upp á hálfa prestsþjónustu með $300 launum. En 29. Nóv. sama ár var neitunarbréf frá honum lesið á safnaðarfundi, er þá var haldinn. Að síðustu var samþykkt á fundi 26. Jan. 1899, að kalla séra Níels Steingrím Þorláksson, sem þá þjónaði norskum söfnuðum í Norðr-Dakota (Park River), fyrir prest hingað upp á $250 laun gegn halfri prestsþjónustu. Séra Steingrímr þjónaði söfnuðinum það ár samkvæmt sérstökum samningi. En svo var köllun til hans endrnýjuð á síðastliðnum vetri, og var hann þá kallaðr upp á fulla prestsþjónustu og $600 laun á ári frá nýári 1900. Og er hann nýlega alfluttr hingað ásamt fjölskyldu sinni og setztr hér að. Er það eigi lítið fagnaðarefni fyrir þennan aðþrengda söfnuð, sem svo oft áðr hafði orðið fyrir átakanlegum vonbrigðum í prestsköllunar-tilraunum sínum, að hafa nú fengið til sín mann, sem á hinum stutta tíma, er hann dvaldi hér næstliðið ár, hafði aflað sér svo mikils trausts hjá söfnuðinum, að hann mitt í fátœkt sinni hikaði eigi við að kalla hann til sín upp á helmingi hærri launa-loforð en hann hafði séð sér fœrt að bjóða nokkrum presti áðr.

Vorið 1893, þegar hinn evang.-lút. söfnuðr fyrst tók til starfa, munu innritaðir meðlimir hans hafa verið að eins um 20. En svo fjölguðu þeir smámsaman, þó hægt fœri.

Um þessar mundir myndaðist hér sjálfstœtt íslenzkt kvenfélag, sem starfaði um nokkur ár að ýmsum framfaramálum Íslendinga hér í Selkirk, hjálpaði fátœkum o. s. frv. Þetta kvenfélag, er myndazt hafði af konum, er að eins höfðu menningar- og framfaraþörfina fyrir augum, án nokkurs sérstaks tillits til safnaðarmála, hjálpaði söfnuðinum með talsverðum fjárframlögum. Og þegar það leið undir lok eftir 4—5 ára starf, arfleiddi það söfnuðinn að sjóði sínum, er nam $40—$45.

29. Nóv. 1895 var samþykkt, að flytja hina litlu kirkju

safnaðarins af Ross Ave., og kaupa tvær bæjarlóðir undir hana, þar sem hún stendr nú, og var hún flutt skömmu síðar. Var henni þá snúið austr og vestr, og myndar hún á þann hátt norðrpart hinnar núverandi kirkju. Var svo 5. Febrúar 1896 samþykkt, að stœkka hana, og var sú viðbót 24 fet á lengd og 28 fet á breidd. Er kirkjan þannig 42 fet á lengd, auk forkirkju 8x10, er myndar undirstöðu turnsins, en hann er full 70 fet á hæð frá jörð. Vegghæð kirkjunnar er 14 fet og frá gólfi til mœnis um 30 fet. Hún er ,,plöstruð'' að innan upp undir hvelfing allt í kring, en sjálf er hvelfingin úr timbri, blámáluð öll hið efra. Inn úr turnlofti kirkjunnar ganga loftsvalir inn undir fremstu hliðarglugga hennar, og rúmar það pláss um 30—40 menn ; en alls rúmar kirkjan 300 manns. Hitunarvél (*furnace*) var sett undir hana á síðastliðnu hausti; kostaði hún yfir $100. Í síðastl. Marzmánuði keypti söfnuðrinn organ handa kirkjunni fyrir $125. Og mun kirkjueignin nú kosta um $2,000 með tilheyrandi áhöldum.

5. Okt. 1897 var söfnuðrinn ásamt kirkjueigninni löggiltr, og hjálpaði hr. Magnús Paulson frá Winnipeg söfnuðinum í framkvæmd þess máls.

9. Ágúst 1898 gekk sá maðr ásamt konu sinni í söfnuðinn, sem Grímr heitir Eymann. Er þess hér sérstaklega getið vegna þess, að hann tók þegar undir eins að sér umsjón sunnudagsskólans og gjörðist formaðr hans. Áðr hafði Stefán E. Davíðsson haft það hlutverk með höndum frá því, er söfnuðrinn tók til starfa að nýju. Og á söfnuðrinn honum stóra þakkarskuld að gjalda fyrir liprð hans, þrautseigju og þolinmœði. Síðan Eymann tók við forstöðu sunnudagsskólans hefir skólinn fœrt út starfsvið sitt stórkostlega. Munu nú 60—70 börn njóta kennslu á honum að meðaltali.

Ensku-mælandi mönnum hér í Selkirk til maklegs heiðrs skal þess getið, að þeir hafa mjög almennt tekið þátt í samskotum til safnaðarþarfa. Einkum er það einn maðr, W. Robinson kapteinn, er skarað hefir langt fram úr, og mun það vera um $100, er hann hefir gefið til kirkjunnar frá fyrstu.

það mun hafa verið haustið 1897, að tvö íslenzk kvenfélög mynduðust hér í Selkirk. Annað þeirra nefndist „Vonin", og tók það líka stefnu og kvenfélagið, sem leið undir lok. Hitt félagið nefndi sig „Safnaðar-kvenfélag", og setti það sér eingöngu það markmið, að hjálpa starfsemi safnaðarins áleiðis. Bæði þessi félög hafa hjálpað honum á ýmsan hátt. Á síðastliðnum vetri gaf „Vonin" söfnuðinum $50 í peningum til organskaupa; og skömmu síðar afhenti þetta félag söfnuðinum eignarbréf fyrir tveimr ekrum af landi umgirtum og með útmældum smálóðum fyrir grafreiti. Mun sú gjöf hafa kostað félagið um $200. Safnaðar-kvenfélagið hefir frá byrjan sinni hjálpað söfnuðinum með ráðum og dáð. Meðal annars tók það að sér að klæða ræðustólinn í kirkjunni og gólfið umhverfis hann. Síðar keypti það sætin í kirkjunni fyrir $224 og gaf söfnuðinum þau; enn fremr $25 til organskaupa. Og nú síðast mun þetta sama félag hafa safnað einhverri upphæð, er það ætlar sér að verja upp í klukku handa kirkjunni, sem það svo að sjálfsögðu gefr söfnuðinum.

þetta er í stuttu máli saga Selkirk-safnaðar; og þótt eg, sem rita þessar línur, hætti að mestu leyti sérstakra ástœðna vegna að taka þátt í störfum hans, þá óska eg honum engu að síðr blessunar drottins í bráð og lengd.

23. Júní 1900.

---

## Ferð til Roseau.

Eftir séra Jónas A. Sigurdsson.

---

Í fyrra sumar myndaðist lúterskr söfnuðr meðal Íslendinga, sem flutt höfðu héðan úr Dakota og numið land í svo nefndri Roseau-byggð, er liggr bæði í Minnesota og Manitoba, beggja megin „línunnar". Söfnuðr þessi nefndist Lúterssöfnuðr, og var hann tekinn inn í kirkjufélagið á síðasta kirkjuþingi.

Samkvæmt ítrekaðri ósk safnaðarmanna fór eg áleiðis til þeirra síðasta (31.) Ágúst. Hafði þessi för mín dregizt lengr en œskilegt var, mest fyrir vanheilsu mína. Til fylgdar réðst með mér góðvinr minn, Metúsalem Jónsson, bóndi frá Pem-

bina. Keyrðum við alla leið, og það á dag, frá Pembina inn til íslenzku byggðarinnar. Þangað kom eg 1. Sept. Var þá þegar ráðstafað guðsþjónustum og öðru slíku verki eftir föngum. En þá tók þegar að rigna, ofan á undangengna úrfellatíð, og hamlaði tíðarfarið samgöngum og samvinnu til muna. Má vera, að fyrir þessa ótíð hafi ferð mín ekki komið öllum að tilætluðum notum. En við því eru engin ráð.

Sunnudaginn 2. Sept. flutti eg guðsþjónustu í skólahúsi sunnan Roseau-árinnar, rétt hjá hinum nýja verzlunarstað Þórðar Vatnsdals. Sótti fólk þá guðsþjónustu vel, ef litið er á ástœður.

Daginn eftir fór eg norðr fyrir ,,línu'', inn í Canada. Þangað hafði eg aldrei áðr komið. Elías E. Vatnsdal, formaðr safnaðarins, fylgdi mér. Ekki veit maðr neitt af því þar, þó maðr sé allt í einu kominn til ,,útlanda'' (Canada). Fór eg um meðal fólksins, er þar býr og eg náði til. Yfirgaf það verk sín og hópaðist saman í húsi Pétrs Pálmasonar, er þar býr og hefir dálitla verzlan. Þar flutti eg guðsþjónustu all-seint um kvöldið og skírði eitt barn. Daginn áðr hafði eg skírt 3 börn.

Þriðjudaginn 4. Sept., sem reyndist einn sá mesti úrfellisdagr, sem eg hefi lifað, byrjaði eg með því, að þjónusta sjúka ekkju, — Mrs. Ólafsson, fyrr á Mountain. Síðan flutti eg guðsþjónustu í skólahúsi skammt frá Sigurði Anderson. Sótti fólk þangað úr allri íslenzku byggðinni, og mátti fjölmennt teljast á virkum degi í vondri tíð og um annatíma. Um 30 manns gekk til altaris og eitt barn var skírt. Alls skírði eg 5 börn. Œðimargir bœttust þá og daginn áðr í söfnuðinn.

Eftir þessa íslenzku guðsþjónustu flutti norsk-lúterskr prestr, T. O. Tolo að nafni, fulltrúi Norsku sýnódunnar, er þar var á ferð, ,,messu'' á há-norsku, með tón og öðru tilheyranda. Smásöfnuð hafði hann myndað þar, er nú sótti til skólahússins í sömu erindum og íslenzku systkinin. Létu margir Norðmanna í ljósi fögnuð sinn yfir þessum brœðrafundi og óskuðu jafnvel eftir, að reisa sameiginlegt guðsþjónustuhús. En á því munu þó meinbugir, einkum að því, er snertir afstöðu byggðarinnar.

þessi smái íslenzki söfnuðr hefir, þótt ungr sé, mœtt dálitlum mótbyr, sem við var að búast. En framtíð hans virðist mér nú að mun tryggari en þegar hann myndaðist. Og eitt er víst : að ef um nokkra hættu væri að rœða, kœmi hún frá safnaðarmönnum sjálfum, en alls ekki utan að. þaðan er engin trúarleg hætta búin. Svo eg vona og bið, að brœðrnir sjálfir haldi saman um málefni sinnar sáluhjálpar.

Byggð þessi er að mörgu leyti efnileg mjög. Fólk er stöðugt að flytja þangað og flest er þar í framför. Ekki má það heldr ervitt heita að heimsœkja söfnuðinn fyrir presta kirkjufélagsins, hvorki frá Dakota né Winnipeg, því þaðan liggr járnbraut nokkrar mílur fyrir norðaustan íslenzku byggðina, sem er Manitoba-megin. Enda er það vilji safnaðarmanna, að fá til sín prest oftar en að undanförnu.

þörfin á missíónarstarfsemi og missíónarpresti er stöðugt að verða stœrri og tilfinnanlegri meðal hinna dreifðu Íslendinga í þessari víðlendu heimsálfu. Og fáa grunar, hvílíkt starf það er, bæði að því, er snertir þýðing þess, og eins áreynsluna, er því fylgir. Missíónarprestrinn þarf að gjöra fleira en að prédika og geta fleira en ferðazt. Hin ytri félagslega hlið verðr jafnan fyrst fyrir í missíónarstarfinu. Söfnuðir vorir og fólk vort þarfnast, auk prédikunar orðsins og úthlutan sakramentanna, leiðbeiningar í öllu kirkjulegu starfi. Allt hjá oss er í byrjan og um allt er deilt eins og alkunnugt er. Afleiðingarnar af slíku eru auðsæjar. því er kunnugleiki á sögu og sorgum vorrar eigin kirkju hér vestra alveg óhjákvæmilegr til þess að geta leiðrétt og leiðbeint. Og í þessu liggr ein aðal-ástœðan fyrir því, að prestar heiman af Íslandi geta ekki fullnœgt öllum þörfum safnaða vorra, hversu góðir kennimenn sem þeir annars kynni að vera í prédikunarstólnum.

Viðtökurnar hjá fólkinu voru hinar allra beztu og bróðurlegustu, bæði kirkjulega og í öðrum íslenzkum skilningi. Eins og fyrr gisti eg hjá Guðvalda Jónssyni frá Hámundarstöðum. Sá maðr og hans hús verðr vafalaust ávallt gestsælt, hvar sem hann dvelr. Samkomurnar sótti fólk vel. Í 3 daga, hvern eftir annan, kom það saman um langan og

illan veg í óveðrum og sumt undir erviðum heimilishag. Sumt kvaðst einskis fremr hafa óskað en einmitt þessara samfunda.

Heimleiðis lögðum við Matúsalem 5. Sept. Hálfgjört Nóaflóð var yfir þeim parti jarðarinnar, sem við fórum um, en þó komumst við farsællega heim. Og öllum þeim, er eg ekki gat kvatt í óveðrinu, er við skildum 4. Sept., sendi eg hér bróðurlega kveðju og bið, að við náum farsællega *heim*, úr neyð lífsins og Nóaflóði syndarinnar.

## Skýrsla.

Í sambandi við umrœðurnar um míssíónar-mál kirkjufélagsins á kirkjuþinginu í Selkirk í sumar gjörði eg munnlega grein fyrir því, hvern þátt kirkjufélagið hefði átt í því, að séra Oddr V. Gíslason kom hingað vestr frá Íslandi sumarið 1894. Og er kirkjuþingsmenn höfðu heyrt þá skýrslu mína, var með samhljóða atkvæðum þingmanna skorað á mig, að birta aðalefni skýrslunnar á prenti áðr en langt liði í ,,Sameiningunni''. Og nú leyfi eg mér að koma hér með það skýrslu-ágrip í sem fæstum orðum.

Að áliðnu sumri 1893, er eg eftir dvöl mína í Park River var staddr að Garðar hjá séra Friðrik J. Bergmann, fékk eg bréf heiman af Íslandi frá hr. Sigtrygg Jónassyni, sem þá var þar á ferð. Efni bréfsins var aðallega það, að skýra mér frá, að séra Oddr, sem þá var prestr á Stað í Grindavík, hefði í huga, ef kunnugir menn áliti það ráðlegt og hlutaðeigendr hér vestra væri því ekki mótfallnir, að koma vestr til þess að gjörast prestr í Nýja Íslandi og eftir mætti að styðja málefni kristindómsins í því byggðarlagi. Þessu til frekari staðfestingar lét hr. Sigtryggr fylgja bréf, er hr. Baldvin L. Baldvinsson, er einnig var staddr á Íslandi um þær mundir, hafði ritað honum um þessa hugsan séra Odds, því til hans hafði séra Oddr fyrst snúið sér og leitað ráða hans í því efni. Hin tvö bréf báru þess vott, að þessir tveir menn vildu séra Oddi allt hið bezta og töldu líklegt, að koma hans hingað, ef hann léti

af henni verða, myndi verða til góðs, bæði honum sjálfum og fólki því hér í landi, sem hann settist að hjá og veitti prestsþjónustu. Og nú var eg spurðr um mitt álit á þessu og um það, hvort kirkjufélagið myndi nokkuð vilja styðja að því, að séra Oddr kœmi í þessu skyni vestr. Og skyldi svar sent séra Oddi hið bráðasta. Ráðgaðist eg þá undir eins um þetta við séra Friðrik J. Bergmann. Og kom okkr saman um, að láta séra Odd bréflega vita, að við gætum ekki þegar í stað gefið honum neina vissu um það, hvort hann kœmist að sem prestr í Nýja Íslandi. En jafnframt var honum lofað því, að séra Friðrik, þáverandi varaforseti kirkjufélagsins, skyldi í sjúkdómsforföllum mínum einhvern tíma á því missiri, svo fljótt sem ástœður hans leyfði, gjöra sér ferð til Nýja Íslands, skýra fólki þar frá vestrfararhugsan séra Odds og, ef það reyndist tiltœkilegt, styðja að því, að fólk þar sendi honum prestsskaparköllun.

Um haustið á eftir ferðaðist séra Friðrik þá líka í þessu skyni norðr þangað. Árangrinn af þeirri ferð var sá, að Brœðrasöfnuðr við Íslendingafljót samþykkti, að kalla séra Odd til sín upp á það, að hann þjónaði þeim söfnuði í sambandi við aðra parta Nýja Íslands, í þeirri von, að hann, þegar hann væri kominn, gæti fengið fólk þar til að vera með og launa honum starf hans að hlutfalli réttu. Prestsköllun þessi var þannig að miklu leyti undir því komin, hvort séra Oddr áræddi að koma upp á það, að þessi von hinum öðrum Nýja Íslands pörtum viðvíkjandi næði að rætast.

Séra Friðrik sagði mér, þegar hann kom til baka úr Nýja Íslands ferðinni, að Brœðrasöfnuðr hefði ályktað, að senda séra Oddi köllunarbréfið í gegn um mig. Og áðr en langt leið var mér líka sent það með þeim tilmælum, að eg kœmi því á framfœri og léti nokkrar línur fylgja með því frá sjálfum mér. En rétt um sömu mundir fékk eg bréf frá séra Oddi frá Íslandi, þar sem hann skýrði mér frá, að hann hefði sjálfr ritað Brœðrasöfnuði og tjáð honum skilmála þá, er hann setti upp, ef hann ætti að koma þangað og gjörast þar þjónandi prestr. Og hann sendi mér um leið eftirrit af þessu bréfi sínu til Brœðrasafnaðar. Sá eg þá undir eins, að skil-

málar þeir, er þar voru settir söfnuðinum, komu í algjöran bága við tilboð eða loforð safnaðarins í köllunarbréfinu. Þótti mér því auðsætt, að ekki myndi saman ganga með söfnuðinum og séra Oddi og að hann þá nærri því að sjálfsögðu myndi sleppa vestrfararhugsan sinni. Fannst mér því köllunarbréfið orðið þýðingarlaust og lét eg það liggja hjá mér um hríð, enda var eg á þeim tíma mjög bilaðr á heilsunni og dugr til framkvæmda enginn hjá mér. Þó þótti mér myndarlegra að senda séra Oddi nokkrar línur og köllunarbréfið frá Brœðrasöfnuði með, en tók fram um leið, að það væri nú aðallega sent sem sannindamerki um það, að séra Friðrik hefði efnt loforð það, sem við sumarið á undan gáfum honum, svo sem í nafni kirkjufélagsins, um ferðina til Nýja Íslands. Það var rétt undir árslokin 1893, að eg sendi séra Oddi þetta skeyti ásamt köllunarbréfinu. Kvaðst eg nú ekki búast við því, að hann áræddi að koma vestr. Og eins og sakir nú stœði þyrði eg með engu móti að hvetja hann til vestrfarar.

En svo líða einir tveir eða þrír mánuðir. Og þá sé eg í einhverju Reykjavíkr-blaðinu, að séra Oddr er alráðinn í því að koma. Kom það alveg flatt upp á mig og marga aðra. Og svo sem kunnugt er sagði hann af sér prestsembætti sínu á Íslandi um vorið og kom hingað á miðju sumri 1894.

Winnipeg, 3. Október 1900.

JÓN BJARNASON.

---

## Leiðrétting á leiðrétting.

,,Verði ljós!" (Ágústblaðið) vill leiðrétta sumt í ,,Athugasemdum út af trúarljóðum", sem standa í Aprílblaði ,,Sameiningarinnar". Ein leiðréttingin er það, að sálmrinn eftir séra Mattías Jokkumsson, ,,Ó, drottinn, drottinn öld af öld", sem fyrst birtist á prenti í ,,Sam." (Sept.) 1890, en síðan í nokkuð breyttri mynd sem nýárssálmr í ,,V. l." (kallaðr þar ,,tímaskiftasálmr") í Jan. 1900, sé ekki eins og tekið er fram í fyrirsögn hans í ,,Sam." orktr um það leyti, er Eyfirðingar héldu þúsund ára þjóðhátíð sína (sumarið 1890), heldr einum

fimm árum áðr, líklega einhvern tíma á árinu 1885. Ritstj. ,,V. l.'' heldr þessu fram út af því, að hann hafi meðal ýmsra plagga sálmabókarnefndarinnar fundið stranga einn, ,,að því er oss (ritstjórann) minnir'' með þessari áskrift frá formanni nefndarinnar: ,,Sálmar meðteknir eftir að farið var að prenta''. Í þeim stranga hafi þessi sálmr séra Mattíasar verið meðal annarra. Og þar sem sálmabókin var prentuð á tveim síðustu mánuðum ársins 1885 og þrem fyrstu mánuðum næsta árs, þá geti sá sálmr því ekki fyrst hafa orðið til eftir þann tíma. Að sjálfsögðu hlyti þá upplýsing sú, er ,,Sam.'' kom með, um það, hve nær sálmrinn sé orktr, að vera óáreiðanleg. Getr verið. En hér er allt undir því komið, hvort vin vorn, hinn háttvirta ritst. ,,V. l.'', minnir rétt. ,,Að því, er oss minnir''—segir hann, en meira ekki, um áskriftina á stranganum. En annars lendir missögnin í ,,Sam.'' um þennan sálm, ef þar í raun og veru er nokkur missögn, á séra Mattíasi sjálfum, því um leið og hann sendi blaði voru sálminn, nú fyrir tíu árum, tók hann þetta skýrt fram, að hann væri það sama ár orktr í sambandi við þúsund ára þjóðhátíð Eyfirðinga.

Um þýðing sálmsins *Rock of Ages*, þá er ,,V. l.'' kom með í Marzblaði þessa árs, sögðum vér í áðr nefndum ,,Athugasemdum'', að það væri ,,ný útgáfa talsvert umsteypt'' af þýðingunni, sem prentuð var í ,,Sam.'' 1893. Þessu er hiklaust neitað af ritstjóra ,,V. l.'' Hann segir, að blað sitt hafi einmitt komið með hina upphaflegu þýðing sálmsins. Og ástœðan hin sama og áðr, að oss skilst, sú, að sá sálmr hafi líka verið í hinum gömlu plöggum sálmabókarnefndarinnar. En þessi sönnunartilraun dugir ekki. Því þó að sálmrinn í þeirri mynd, er hann birtist í ,,Sam.'', væri þar ekki prentaðr fyrr en árið 1893 (í Október-blaði þess árs), þá var hann þó löngu áðr til í höndum vorum. Ritstjóri blaðs þessa átti heima á Seyðisfirði á árunum 1880—84, og á því tímabili snemma fékk hann þýðinguna frá séra Mattíasi eftir að hafa mælzt til þess við hann að snúa hinum enska sálmi. Þetta er nú alveg áreiðanlegt. Sú útgáfa þýðingarinnar, sem ,,V. l.'' kom með, ber það líka nærri því skýlaust með sér, að hún

hlýtr að vera seinna til orðin en hin. Hún er greinilega nákvæmari, nær frumsálminum, en sú, er fyrst birtist í ,,Sam.", þó að hin síðarnefnda hafi líka sína sérstöku kosti. Vér vísum í því skyni til Aprílblaðs ,,Sam." fyrir þetta ár, þar sem þýðingarútgáfurnar báðar eru prentaðar hvor við hliðina á annarri.

Ritstjóri ,,V. l." segist ekki fá séð, að blað hans hafi ,,unnið sér til óhelgi" með því að prenta þessa og fleiri sálma séra Mattíasar, þótt einhverjir þeirra hafi áðr verið prentaðir einhvern tíma fyrir löngu. Vér fáum ekki heldr séð það, enda höfum vér hvergi með einu orði innt í þann veg í ,,Athugasemdum" vorum. ,,Sam." hefir oftar en einu sinni og oftar en tvisvar haft meðferðis sálma, er áðr hafa verið prentaðir annarsstaðar. En þá er svo stendr á, er það regla vor, að geta þess í blaðinu, að þar sé endrprentan, og þá um leið að nefna ritið, þar sem fyrstu útgáfuna er að finna.

---

Rétt á eftir kirkjuþingi síðasta fór séra Oddr V. Gíslason í missíónar-erindum til Íslendingabyggðarinnar við Narrows norðaustr frá Manitoba-vatni og sömuleiðis til hinnar nýju íslenzku byggðar við Big Grass Marsh norðaustr frá bœnum Gladstone á Norðvestrbrautinni. Í hinni fyrr nefndu byggð hafði hann tvo guðsþjónustufundi með fólkinu og skírði eitt barn. Í hinni síðar nefndu eina guðsþjónustu og skírði þá þrjú börn.

Í skýrslu sinni um ferð þessa segir séra Oddr: ,,Byggðin við Narrows er svo afskekkt, strjálbyggð og fámenn, að ekki er þar enn að búast við miklum framförum í menntalegu tilliti; en óefað er, að nokkrir þeirra manna, sem þar eru, efla framfarir með vaxandi efnum. Big Grass-byggðin stendr miklu betr að vígi í þá átt, í öllu tilliti, og er þar helzt að varast *of þétta* byggð, því land er bæði grýtt og magrt til akryrkju, en til griparœktar þarf landrými mikið. Í báðum þessum byggðum á kirkja vor víst fylgi, þegar fram í sœkir."

Nú aftr í byrjan þessa mánaðar (Október) hefir séra Oddr verið á missíónar-ferð í þessum sömu byggðum.

---

BÓKAGJÖF.—Hr. Sveinn Sölvason að Mountain í N.-

Dak. hefir fyrir skömmu gefið bókasafni kirkjufélagsins, sem enn er í mínum vörzlum, þessar bœkr: 1. Húspostillu Vídalíns, 5. útg., Hólum 1743; 2. Grallarann, 14. útg., Hólum 1747; 3. Smárit séra Jóns í Möðrufelli: nr. 4 og 2 sambundin; 4. sömu rit: nr. 13—26 sambundin; 5. Föstuprédikanir Vídalíns, 3. útg., Hólum 1746; 6. Passíusálma H. P. (tréstýlsútg. án titilblaðs); 7. Guðspjalla-harmóníu, Hólum 1749; 8. Píslarþanka (án titilbl.) og Krossskólareglur, Hólum 1775,—sambundið; 9. Hallgrímskver, Viðey 1834; 10. Hústöflu séra Jóns Magnússonar, Viðey 1842.

Um leið og eg í kirkjufélagsins nafni kvitta og þakka einkar vel fyrir þessa gjöf leyfi eg mér, eins og eg lauslega gjörði á kirkjuþinginu í sumar, að mælast til þess við þá, sem eiga gamlar íslenzkar bœkr, er þeir alls ekki lengr nota, að láta þetta bókasafn fá þær gefins. Það er miklu betra en að láta þær lenda í eyðilegging. Í safninu myndi þær geymast vel og gæti með því móti síðar meir orðið til gagns.

Winnipeg, 3. Okt. 1900. Jón Bjarnason.

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 309 Elgin Ave., sendir „Sam." út.

Hr. Sigrbjörn Sigrjónsson, 555 Ross Ave., hefir á hendi innköllun fyrir „Sam" hér í bœnum.

Hjá ritstjóra „Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament frá brezka biblíufélaginu. Biblían kostar $1.45, nýja testamentið 60 cts.



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.